# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, ÁGÚST 1900. Nr. 6.


## Framhald gjörðabókar frá 16. ársþingi *hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vh.*

(Niðrlag af áliti skólamálsnefndarinnar.)

Forseti Gustavus Adolphus latínuskólans í St. Peter, í Minnesota, dr. M. Wahlström, hefir fyrir nokkru ritað einum nefndarmanninum, séra Birni B. Jónssyni, bréf og beðið hann að gjöra stjórnarnefndinni kunnugt þýðingarmikið tilboð frá nefndum latínuskóla. Tilboðið er á þessa leið: Gustavus Adolphus skólinn býðr hinu ev. lút. kirkjufélagi Íslendinga í Vestrheimi að hafa hœfan íslenzkan kennara við skólann, er kenni íslenzkum nemendum í skólanum og hverjum öðrum nemendum, er œskja þess, íslenzkar námsgreinir, og sé kennari þessi undir stjórn kirkjufélagsins íslenzka að öllu öðru leyti en því, er snertir hinar almennu reglur skólans. Kennari þessi skal einnig annast hina trúarbragðalegu frœðslu hinna íslenzku nemenda, ef kirkjufélagið œskir þess. Kirkjufélagið borgi hinum íslenzka kennara; en ef hann hefir afgangs tíma, sem hann getr varið til annarrar kennslu í skólanum, þá býðr skólinn að nota hann til þess og borga kaup hans að hlutfalli við það, sem sú kennsla nemr. Íslenzkir nemendr skulu aftr á móti eiga aðgang að skólanum með öllum sömu réttindum eins og nemendr, er tilheyra Minnesota-konferenzu Ágústana-sýnódunnar. Samningr um þetta efni skal ganga í gildi undir eins og kirkjufélagið samþykkir skilmálana. En ekki má taka kennarann burt aftr nema með því móti, að gefinn sé sanngjarn fyrirvari.

Með því stjórnarnefndin hefir ekkert vald til að gjöra neina samninga í ofangreindu efni, þá leyfir hún sér að eins að skýra kirkjufélaginu frá tilboðinu og mæla með, að það verði tekið til alvarlegrar íhugunar.

Winnipeg, 21. Júní 1900.
Virðingarfyllst.
Sigtr. Jónasson, Fr. Friðriksson, Björn B. Jónsson,
Jónas A. Sigurðsson, M. Paulson,

JAFNAÐARREIKNINGR 1. Júlí 1900.

| | | |
|---|---|---|
| Eignir skólasjóðs 1. Júlí 1899 | | $5749.67 |
| Vextir á árinu greiddir | $ 270.99 | |
| " " ógreiddir | 74.15 | |
| Gjafir | 11.00 | |
| | 356.14 | |
| Útgjöld | 56.90 | 299.24 |
| | | 6048.91 |
| Eignir skólasjóðs 1. Júlí 1900: | | |
| Nótur | $2655.54 | |
| *Mortgages* | 2627.35 | |
| Í bönkum | 500.00 | |
| Áfallnir vextir ógreiddir | 74.15 | |
| Í höndum féhirðis | 191.87 | 6048.91 |

Eftir að þessum skjölum frá skólamálsnefndinni hafði verið veitt viðtaka las skrifari upp umsóknarbréf frá Breiðuvíkrsöfnuði um inngöngu í kirkjufélagið. Bréfinu vísað til nefndarinnar í inngöngumálinu.

*Missíónar-málið*

tekið fyrir. Séra Rúnólfr Marteinsson lagði til, að 5 manna nefnd væri sett í málið; stutt og samþykkt. Forseti kvaddi þessa menn í nefndina: séra Rúnólf Marteinsson, Bjarna Jones, Jóhannes Einarsson, Gest Jóhannsson og Jón Þórðarson.

*Kirkjufélagið og General Council*

var mál það, er næst var tekið fyrir. Skrifari las bréf frá dr. Eric Norelius, þeim manni, sem mœta átti á þessu kirkjuþingi voru fyrir hönd *Gen. Councils.* Hann skýrir þar frá, að sökum þings Ágústana-sýnódunnar, sem nú stendr yfir, geti hann ekki mœtt á þinginu. Hann biðr þinginu blessunar drottins og sendir því bróðurkveðju.

Séra Jónas A. Sigurðsson bar fram þessa tillögu: „Kirkjuþingið œskir, að forgöngumaðrinn í *G. C.*-málinu, séra N. Steingrímr Þorláksson, gjöri hér skriflega grein fyrir starfi sínu og tillögum, og sé hann enn gjörðr að formanni 5 manna nefndar, sem hér sé sett í málið." Klemens Jónasson studdi. Tillagan samþykkt. Forseti kvaddi þessa menn í nefndina: séra N. Steingrím Þorláksson, Jón A. Blöndal, séra Friðrik J. Bergmann, Guðm. P. Þórðarson og Magnús Paulson.

Eftir nokkrar umrœður um þetta mál var fundi slitið.

5. fundr, sama dag kl. 2 e. m.

Sungin tvö vers af sálminum 303.

Samkvæmt tillögu frá séra Jónasi A. Sigurðssyni var Gunnlaugi Pétrssyni frá Pembina veitt málfrelsi á þinginu.

*Skólamálið* var þá tekið fyrir.

Stefán Eyjólfsson bar fram tillögu um að 5 manna nefnd væri sett í málið. Stutt og samþykkt.

Séra Rúnólfr Marteinsson lagði til, að forseti væri einn nefndarmaðrinn ; stutt og samþykkt. Forseti útnefndi hina fjóra : séra Jónas A. Sigurðsson, séra Björn B. Jónsson, W. H. Paulson og Ólaf S. þorgeirsson.

*Útgáfa nýrrar sálmabókar.*

það mál var nú tekið fyrir.

Séra Jón Bjarnason gjörði grein fyrir því, að enn þá væri ýmsir hængir á útgáfu nýrrar sálmabókar handa ísl. kirkjunni hér. Kostnaðr við útgáfu slíkrar bókar — með söngnótum — yrði fjarska mikill. Bókin yrði því langt um of dýr til þess hún seldist greiðlega. Ef bœta ætti nýjum sálmum inn í bókina og hún, þannig breytt, yrði innleidd í söfnuðum kirkjufélagsins, þá yrði það allt, sem safnaðarfólk vort á nú af sálmabókum, nálega ónýtt; enn fremr þess að gæta, að guðsþjónustuform vor hin nýju, sem farið er eftir í sumum söfnuðum vorum, eru engan veginn svo úr garði gjörð, að rétt væri að setja þau eins og þau eru í sálmabókina.—Að endrskoða sálmabókina til hlítar tekr mikið verk og mönnum, sem búa fjarri hver öðrum, er mjög ervitt að ná saman til nauðsynlegrar samvinnu að því starfi.

Séra Björn B. Jónsson lagði til, að nefndin í sálmabókarmálinu frá í fyrra sé endrkosin til að hafa málið til meðferðar framvegis. Stutt og samþykkt.

Séra Jónas A. Sigurðsson bar fram svo hljóðandi tillögu: ,,Kirkjuþingið felr nefndinni að stuðla til, að samvinna komist á milli hennar og handbókarnefndarinnar á Íslandi.'' Bjarni Jóhannsson studdi. Samþykkt.

Næsta máli á dagskrá, ,,Sameiningin'', frestað þar til féhirðir gæti lagt fram reikning blaðsins.

Sunnudagsskólamálinu sömuleiðis frestað samkvæmt ósk nefndarinnar í því máli.

*Bókasafn skólans.*

Það mál var nú tekið fyrir. Séra Friðrik J. Bergmann bar fram tillögu, sem Sveinn Sölvason studdi, um það, að kirkjuþingið veiti $25.00 til bókasafnsins, samkvæmt bending í ársskýrslu forseta. Samþykkt.

*Ályktanir út af kristnitöku Íslendinga fyrir 900 árum*

var næsta og seinasta málið á dagskrá. Séra Friðrik J. Bergmann útskýrði það. Hann áleit rétt, að innibundin væri í þeim ályktunum, sem gjörðar yrði, kveðjuorð til kirkjunnar á Íslandi.—Séra Jónas A. Sigurðsson lagði til, að þriggja manna nefnd væri sett til þess að semja ályktanir þessar; stutt og samþykkt. Forseti kvaddi í nefndina þá séra Friðrik J. Bergmann, séra Jónas A. Sigurðsson og séra Odd V. Gíslason.

Fundi frestað þar til kl. 4.30 e. m.

6. fundr, sama dag kl. 4.30 e. m.

Séra Jón J. Clemens lagði fram svo hljóðanda álit frá nefndinni, er íhuga skyldi umsóknir safnaða um inngöngu í kirkjufélagið:

Herra forseti!

I.

Vér, sem kvaddir vorum í nefnd til að íhuga beiðni Lúters-safnaðar Guðbrands-safnaðar, St. Jóhannesar-safn. (N.-Dak.), Breiðuvíkr-safn. og Alberta-safn. um inngöngu í kirkjufélagið, höfum lesið bréfin, sem frá þessum söfnuðum og umboðsmönnum þeirra hafa komið til vor um þetta mál. Vér höfum einnig yfirfarið lög safnaðanna. Og með því vér sjáum ekkert varhugavert eða ísjárvert við umsókn þeirra, og með því þeir hafa fullnægt kröfum XIII. greinar grundvallarlaganna viðvíkjandi inngöngu safnaða í kirkjufélagið, — þá mælum vér eindregið með því, að þessir áðr nefndu söfnuðir sé teknir inn í kirkjufélag vort.

II.

Vér vildum einnig benda á það, að þrír af þeim söfnuðum, sem beiðast inngöngu í kirkjufélagið í ár, hafa með sérstökum skilyrðum gjört ráðstöfun fyrir því í safnaðarlögum sínum, að veita atkvæðisrétt og kjörgengi meðlimum, sem ekki eru fermdir. Vér getum skilið það, að komið geti fyrir, að söfnuðrinn álíti nauðsynlegt að veita ófermdum meðlimum þessi réttindi. En það er álit nefndarinnar, að söfnuðir vorir ætti að styðja að því eftir fremsta megni, að allir meðlimir safnaðanna, sem veittr er atkvæðisréttr og kjörgengi í söfnuðunum, sé upp-

fræddir í kristilegum (lúterskum) fræðum og fermdir, enda þótt þeir þá sé eldri en vanalega gjörist.

III.

Ein grein í safnaðarlögum Albert-safnaðar hljóðar svo: „Eign þessa safnaðar getr ekki gengið í annarra hendr, nema söfnuðrinn ákveði það með $\frac{2}{3}$ allra atkvæða." Reynslan hefir kennt oss það, að heppilegra sé að hafa í þessari grein skýrt ákvæði, sem fari eitthvað í þessa átt: „Sundrist söfnuðrinn, heldr sá hluti hans eigninni, sem heldr fast við grundvallarlög safnaðarins."—Þetta er einungis bróðurleg bending til Alberta-safnaðar.

IV.

Í umsóknarbréfi sínu minnist Alberta-söfnuðr á prestsþjónustumál þess safnaðar. Vér viljum leggja það til, að því máli sé vísað til nefndarinnar í missíónar-málinu.

Á kirkjuþingi í Selkirk, 22. Júní 19 0.

Jón J. Clemens, Sveinn Sölvason, S. S. Hofteig,

Nefndarálitið var samþykkt.

Séra Jónas A. Sigurðsson bar fram tillögu um það, að samþykktar sé gjörðir nefndarinnar í sunnudagsskólamálinu að því, er snertir undirbúning undir kennarafundinn, sem haldast á í sambandi við þetta kirkjuþing og fyrirfram hefir auglýstr verið,—og enn fremr um það, að öllum þeim, sem nefndin hefir boðið á þingið til að ræða málið, sé veitt málfrelsi á þeim fundi. Fundi slitið.

7. fundr, sama dag kl. 8 e. m.

Byrjað var með að syngja sálminn nr. 622.

Samkvæmt því, er áðr hafði verið auglýst, var fundr þessi helgaðr *sunnudagsskólamálinu*. Forseti óskaði og þingið samþykkti, að séra Björn B. Jónsson, formaðr sunnudagsskólanefndarinnar, stýrði fundinum. Aðal-ræður fluttu Jóh. S. Björnsson („Þýðing sunnudagsskólanna"), séra Jón J. Clemens („Sunnudagsskólinn og heimilið") og séra Rúnólfr Marteinsson („Leiðbeiningar fyrir kennara"). Þar á eftir fóru fram almennar umræður um sunnudagsskólastarfið, er allmargir tóku þátt í.

Auk þingmanna mættu á fundinum kennarar frá sunnudagsskólum Bræðrasafn., Mikleyjar-s., Gimli-s., Pembina-s., Þingvalla-s., Hallson-s., Víðines-s., St. Páls-s., Garðar-s.,

Selkirk-s., Frelsis-s. og Fríkirkju-s., Víkr-s., Brandon-s., Fyrsta lút. safn. í W.peg og Tjaldbúðar-s., (sem þó er utan kirkjufél.) Kl. 11 e. m. var fundi slitið.

8. fundr, 23. Júní kl. 9 f. m.

Fyrst var sunginn sálmrinn nr. 515; séra Rúnólfr Marteinsson las 12. kap. í bréfinu til Rómv. og flutti bœn.

Kjörbréfanefndin skýrði frá, að til þings væri kominn Gunnlaugr E. Gunnlaugsson, erindsreki safn. í Brandon.

Magnús Paulson lagði fram svo hljóðanda álit nefndarinnar í málinu ,,kirkjufélagið og *General Council*":

Vegna þess, að það hefir komið mjög ljóslega fram í rœðum erindsreka á þinginu, að viljinn til inngöngu í *General Council* er enn ekki almennr á meðal safnaðanna, og enn fremr vegna þess, að þing *General Councils* verðr ekki haldið fyrr en á næstkomanda ári, svo af inngöngu getr ómögulega orðið fyrr en eftir næsta kirkjuþing vort, þá ráðum vér kirkjuþinginu til að fresta inngöngunni til næsta árs.

Nálega umrœðulaust var nefndartillagan samþykkt.

Gestr Jóhannsson lagði það til, að nefndin, sem hér á þingi hefði málið til meðferðar, væri gjörð að standandi nefnd í málinu. Eiríkr Jóhannsson studdi þá tillögu, en við atkvæðagreiðslu var hún felld.

Fundi slitið.

9. fundr, sama dag kl. 2 e. m.

Byrjað með að syngja versið nr. 400.

Fjarverandi voru séra Friðrik J. Bergmann og séra Oddr V. Gíslason (farinn af þingi með leyfi forseta þar til næsta mánudag).

Féhirðir kirkjufélagsins, Jón A. Blöndal, lagði fram skýrslu yfir fjárhag félagsins.

Þeir Stefán Eyjólfsson og séra Jón J. Clemens voru kosnir til að yfirskoða skýrslu féhirðis.

Jón A. Blöndal lagði fram reikninga ,,Sameiningarinnar", og voru þeir Tómas Halldórsson og Gunnlaugr E. Gunnlaugsson kosnir til að yfirskoða þá.

Skrifari kirkjufélagsins, séra Björn B. Jónsson, lagði fram ársskýrslu sína, þannig hljóðandi:

## SKÝRSLA um eignir, fólkstal og sd.skólahald í kirkjufélaginu í Júní 1900.

| | I. FÓLKSTAL OG EIGNIR. | | | | | | | II. SUNNUDAGSSKÓLINN. | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Söfnuðir. | Fermdir | Ófermdir | Samtals | Altarisg. | K.kjueign | Skuld | Sk.dagar | Kennarar | Innritaðir | Fermdir | Ófermdir | Flestir | Fæstir | Meðaltal |
| 1 | Marshall-söfnuðr | 28 | 18 | 46 | 30 | $1500 | $ | 41 | 4 | 17 | 7 | 10 | 17 | 8 | 13 |
| 2 | St. Páls-söfn. | 140 | 60 | 200 | 180 | 3500 | | 52 | 11 | 82 | 25 | 57 | 72 | 26 | 58 |
| 3 | Lincoln-söfn. | 130 | 93 | 123 | 130 | 3000 | | 20 | 4 | 68 | 20 | 48 | 68 | 20 | 44 |
| 4 | Vestrheimssöfn. | 68 | 32 | 100 | 35 | 1500 | | 34 | 3 | 24 | 3 | 21 | 19 | 7 | 13 |
| 5 | Garðar-söfn. | 380 | 253 | 633 | 249 | 3800 | | 36 | 6 | 92 | 20 | 72 | 65 | 18 | 44 |
| 6 | Þingvallasöfn., N.-D. | 140 | 117 | 257 | 61 | 2800 | | 33 | 6 | 85 | 17 | 68 | 47 | 26 | 37 |
| 7 | Víkrsöfn. | 220 | 135 | 355 | 135 | 2500 | | 38 | 6 | 75 | 14 | 61 | 51 | 25 | 36 |
| 8 | Fjallasöfn | 77 | 31 | 108 | 54 | 800 | | | | | | | | | |
| 9 | Hall-son-söfn. | 104 | 60 | 164 | 60 | 2500 | 500 | 21 | 4 | 33 | | 33 | 33 | 14 | 25 |
| 10 | Pétrssöfn. | 115 | 98 | 213 | 67 | 2000 | 125 | 51 | 4 | 60 | 5 | 55 | 35 | 17 | 25 |
| 11 | Vídalínssöfn. | 240 | 152 | 392 | 110 | 1275 | | 55 | 5 | 78 | 12 | 66 | 54 | 14 | 35 |
| 12 | Grafton-söfn. | 35 | 29 | 64 | 18 | 1100 | | 17 | 3 | 17 | 1 | 16 | 15 | 8 | 12 |
| 13 | Pembina-söfn. | 137 | 71 | 208 | 70 | 1800 | | 58 | 7 | 59 | 14 | 45 | 47 | 7 | 30 |
| 14 | Fyrsti lút. söfn. í Wpeg. | 540 | 310 | 850 | 394 | 5000 | 250 | 52 | 23 | 256 | 55 | 201 | 188 | 117 | 165 |
| 15 | Fríkirkjusöfn. | 170 | 69 | 239 | 150 (15–16) | 4000 (15–16) | 300 (15–16) | 42 (15–16) | 11 (15–16) | 262 (15–16) | 106 (15–16) | 156 (15–16) | 172 (15–16) | 41 (15–16) | 117 (15–16) |
| 16 | Frelsissöfn. | 264 | 179 | 443 | | | | | | | | | | | |
| 17 | Brandon-söfn. | 39 | 47 | 86 | | 700 | 30 | 52 | 4 | 32 | 4 | 28 | 29 | 16 | 20 |
| 18 | Þingvallanýlendu-söfn. | 83 | 85 | 168 | 80 | | | 47 | 6 | 65 | 15 | 50 | 60 | 4 | 19 |
| 19 | Selkirk-söfn. | 121 | 55 | 176 | | 1800 | | 40 | 6 | 96 | 8 | 88 | 115 | 11 | 70 |
| 20 | Víðinessöfn. | 35 | 30 | 65 | | | | 15 | 2 | 25 | 1 | 24 | 17 | 10 | 12 |
| 21 | Árnessöfn. | 46 | 51 | 97 | | | | | | | | | | | |
| 22 | Brœðra-söfn. | 79 | 40 | 119 | 16 | | | 28 | 3 | 59 | 25 | 34 | 30 | 9 | 18 |
| 23 | Fljótshlíðarsöfn. | 72 | 43 | 115 | | | | | | | | | | | |
| 24 | Mikleyjarsöfn. | 29 | 20 | 49 | 1 | 800 | | 42 | 4 | 39 | 6 | 33 | 31 | 12 | 15 |
| 25 | Melanktonssöfn. | 74 | 70 | 144 | 30 | | | | | | 1 | | | | |
| 26 | St. Jóhannesarsöfn. | 27 | 18 | 45 | | | | 10 | 2 | 8 | | 8 | 8 | 6 | 7 |
| | | 3393 | 2166 | 5559 | 1870 | 40375 | 1206 | | 124 | 1532 | 358 | 1174 | 1173 | 416 | 815 |

ATHUGASEMDIR við skýrsluna.—Skýrslur vanta frá Brandon-söfnuði, Fljótshlíðarsöfnuði og Melanktonssöfnuði, og eru tölur frá síðasta ári látnar standa. Eftir því, sem mér hafa borizt skýrslur, hafa á árinu verið skírð 288 börn, fermd 157 ungmenni, gift 55 hjón og greftraðir 113. Eg hygg, að nokkur prest verk hafi auk þessa verið unnin, sem mér ekki hefir verið skýrt frá. Eignir safnaða kirkjufélagsins eru 3,250 doll, meiri en í fyrra, 50 sálum fleira er í kirkjufélaginu, 256 altarisgöng-

ur eru fleiri en í fyrra. Tala sunnudagsskólanna er sama sem í fyrra og nemendr álíka margir.

p.t. Selkirk, Man., 21. Júní 1900.

BJÖRN B. JÓNSSON,
skrifari kirkjufélagsins.

Séra Rúnólfr Marteinsson, formaðr nefndarinnar í missíónarmálinu, lagði fram svo látanda nefndarálit:

1. Vér ráðum til þess, að prestarnir séra Friðrik J. Bergmann, séra Björn B. Jònsson, séra Jònas A. Sigurðsson og séra Jòn J. Clemens sé beðnir með samþykki safnaða sinna að hafa á hendi á næstkomanda ári missíónarstarf á svipaðan hátt og í fyrra, að svo miklu leyti, sem því verðr við komið og þeir álíta það gagnlegt.

2. Vér ráðum til þess, að séra N. Steingrímr þorláksson sé beðinn, ef söfnuðr hans er því samþykkr, að takast á hendr missíónarstarfsemi fyrir kirkjufélagið um þriggja mánaða tíma á þessu ári og næsta ári fram að næsta kirkjuþingi, og sé honum fyrir það borgaðir 50 doll. um hvern mánuð auk ferðakostnaðar úr kirkjufélagssjòði.

3. Vér ráðum til þess, að séra Oddi V. Gíslasyni sé veittir 50 doll. úr kirkjufélagssjòði til styrktar missíònarstarfi hans, og sé hann beðinn að ferðast um byggðir og bæi meðfram Manitoba- og Norðvestr-járnbrautinni innan takmarka Manitoba, sérstaklega byggðirnar á vestrströnd Manitoba-vatns; enn fremr ferðist hann til Winnipegosis, Swan River, Keewatin, Rat Portage, o. s. frv.

4. Vér ráðum til þess, að séra Stefáni Pálssyni, nú sem stendr þjónanda presti í New Rochelle, N. Y., sé sent köllunarbréf og hann beðinn að gjörast missíónar-prestr kirkjufélagsins frá 1. Febrúar 1901, með 600 doll. árslaunum auk ferðakostnaðar, meðan hann þjònar sem missíónarprestr.

5. Til þess að framfylgja tillögu þeirri, sem tekin er fram í fjòrða lið þessa nefndarálits, og einnig til þess að fá guðfræðisstúdent Gunnlaug Jónsson í Philadelphia, Pa., til þess síðar að ganga í þjònustu kirkjufélags vors, felum vér stjòrnarnefnd kirkjufélagsins að hafa á hendi bréfaskriftir við þessa tvo menn, og ef nauðsynlegt er senda mann austr til þeirra í þeim tilgangi að sannfæra þá um nauðsynina á því, að þeir gangi í þjónustu vora, og enn fremr til þess að sannfæra forstöðumann prestaskòlans í Philadelphia um rétt vorn til vorra eigin manna og nauðsyn á starfsmönnum hjá oss á yfirstandandi tíð, og sé stjòrnarnefnd kirkjufélagsins gefið vald til að verja fé úr kirkjufélagssjóði, sem þarf, til að koma þessu í framkvæmd.

6. Óskum um prestsþjònustu frá Alberta-söfnuði og St. Jòhannesarsöfnuði í Laufássbyggð getum vér ekki svarað á annan hátt, vegna skorts á starfsmönnum nú sem stendr og òvissu viðvíkjandi því atriði í framtíðinni, en að fela forseta kirkjufélagsins að nota þá krafta, sem kirkjufélagið hefir ráð á, til missíònar í þarfir þeirra, að svo miklu leyti, sem œskt er og honum er unnt.

7. Vér ráðum til, að forseta sé falið að hafa á hendi aðal-umsjón með missíónar-starfseminni.

Guðmundr P. Þórðarson lagði til, að nefndarálitið væri tekið fyrir lið fyrir lið. Stutt og samþ.

1., 2., 3. og 4. liðr samþykktir óbreyttir. Við 5. lið gjörði séra Björn B. Jónsson þá breytingartillögu, að ummælin um forstöðumann prestaskólans í Philadelphia sé felld úr, og var það samþykkt. Var svo 5. liðr samþykktr með áorðinni breyting. 6. og 7. liðr var samþykktr óbreyttr, og síðan allt nefndarálitið í heilu lagi með áorðinni breyting í 5. lið.

Séra Jónas A. Sigurðsson lagði til, að séra Oddi V. Gíslasyni væri veittir 50 doll. úr kirkjufélagssjóði sem þóknun fyrir verk hans á liðnu ári. Stutt og samþ.

Í sambandi við þetta skýrði forseti þinginu frá afskiftum kirkjufélagsstjórnarinnar af ráðning séra Odds sem prests í Nýja Íslandi. Skýringar þessar lofaði hann samkvæmt beiðni þingsins að birta síðar í „Sameiningunni“.

Stefán Eyjólfsson lagði fram yfirskoðaðan reikning kirkjufélagsins, þannig hljóðanda:

Hið ev. lút. kirkjufélag Íslendinga í Vestrheimi.

Útgjöld frá 23. Júní '99 til 23. Júní 1900:

| | |
|---|---|
| Borgað Pétri J. Skjöld, ritföng (á kirkjuþingi í fyrra) | $1.35 |
| " séra Oddi V. Gíslasyni | 25.00 |
| " " Jónasi A. Sigurðssyni (ferðakostnaðr) | 15.00 |
| " fyrir ávísan | 10 |
| " séra N. Stgr. Þorlákssyni (för hans á þing Gen. Counc ) | 35.00 |
| " " Rúnólfi Marteinssyni (laun og ferðakostnaðr) | 285.50 |
| | $361.95 |

JAFNAÐARREIKNINGR KIRKJUFÉLAGSINS:

| | | |
|---|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $376 37 | |
| Meðtekið gjald frá söfnuðum á árinu | 176.77 | |
| Gjafir frá söfn. og einstökum mönnum í missíónarsjóð | 214.50 | $767.64 |
| Borgað ýmsum | | 361.95 |
| Í sjóði 23. Júní 1900 | | $405.69 |

Vér undirritaðir höfum yfirfarið þessa árs reikninga kirkjufélagsins og höfum enga galla fundið á þeim; mælum því með því, að þeir sé samþykktir af kirkjufélaginu á þessu þingi.

Jón J. Clemens, Stefán Eyjólfsson.

Eftir tillögu frá Bjarna Jones var fjárreikningr þessi samþykktr. Fundi slitið.

10. fundr, sama dag kl. 8 e. m.

Sungið versið nr. 193. Fjarverandi voru þeir séra Frið-

rik J. Bergmann, séra Oddr V. Gíslason, séra Jónas A. Sigurðsson og séra Rúnólfr Marteinsson.

*Skólamálið* tekið fyrir.

Séra Jón Bjarnason lagði fram fyrir hönd nefndarinnar, er áðr á þinginu var sett í málið, svo hljóðanda nefndarálit:

Vér, sem í gær vorum kvaddir í nefnd hér á kirkjuþingi til þess að íhuga skòlamál kirkjufélagsins, höfum sameiginlega komizt að svo látandi niðrstöðu:

Það dugir ekki að halda málinu framvegis í því horfi, sem gjört hefir verið á kirkjuþingum nú um nokkur ár. Það þarf að taka upp á einhverju nýju til þess að hjálpa því við í framtíðinni. Og er oss nú ánœgja að geta þess, að með tilboði því, er dr. M. Wahlström, forstöðumaðr Gustavus Adolphus skólans í St. Peter, Minn., hefir gjört kirkjufélagi voru í nafni þeirrar deildar Ágústana-sýnódunnar sœnsku, er hann tilheyrir, virðist bent á gott ráð til þess að hrinda skòlamálinu áfram.

Oss dylst ekki, að það myndi verða kirkjufélagi voru stòrkostlegr hagr — svo lengi sem vér ekki getum komið hinum fyrirhugaða skóla vorum á fót—, að hafa sérstakan kennara við nefndan skóla, vel hœfan mann af vorum þjòðflokki, sem tœki að sér að veita íslenzkum nemendum þar tilsögn á móðurmáli voru í íslenzku og íslenzkum bòkmenntum, svo og í kristilegum trúarfrœðum. Það myndi að einu leyti verða *skólamálinu* sá bezti stuðningr, er það gæti fengið í bráð. Og í annan stað myndi það leiða til þess, að vér fengjum haldið hjá oss prestsefnum þeim hinum íslenzku, er þangað verða framvegis send til náms. *Prestsmáli* kirkjufélagsins myndi með þessu móti einungis verða borgið.

Vér ráðum því til þess, að skòlamálsnefnd sú, er kosin verðr á þessu þingi, gjöri hið fyrsta samning við stjòrn Gustavus Adolphus skòlans út af áðr nefndu tilboði frá forstöðumanni þeirrar stofnunar, og leitist við að komast að svo góðum kjörum fyrir kirkjufélagið, sem frekast er unnt að fá.

Vér ráðum enn fremr til þess,—í von um að slíkr samningr takist—, að kirkjufélagið kalli séra Friðrik J. Bergmann til að takast kennaraembætti þetta á hendr, og sé honum til bráðabirgðar boðin 900 dollara árslaun, er borgist úr skòlasjóði, en þar frá dragist þó sú upphæð, er G. A. C llege borgar honum samkvæmt skuldbinding sinni fyrir kennslustarf hans í þess þarfir. Kennaranum skal falið, að hafa með höndum aðal-framkvæmdir í skòlamáli kirkjufélagsins, og í því skyni að ferðast á milli safnaðanna í sumarleyfinu.

Skólamálsnefnd kirkjufélag-ins starfi framvegis að hinni fyrirhuguðu skólastofnan vorri og hafi yfirumsjòn með kennaraembættinu og íslenzku kennslunni í G. A College.

Kirkjufélagið setji sér það markmið, að auka sem fyrst skólasjóðinn svo, að vextir hans nemi svo miklu sem útgjöld þau eru mikil, er kennaraembætti þetta hefir í för með sér, og sé skòlamálsnefndinni falið að koma því í framkvæmd.

Jònas A. Sigurðsson, Björn B. Jónsson, W. H. Paulson,
Ólafr S. Thorgeirsson, Jòn Bjarnason.

Við nefndarálitið gjörði Stefán Eyjólfsson þá breytingartillögu, að árslaun kennarans væri $1000, í staðinn fyrir $900. Klemens Jónasson studdi. Samþykkt.

Jósef J. Myres gjörði þá viðauka-tillögu, að fáist ekki séra Friðrik J. Bergmann til að taka köllun þingsins, sé skólamálsnefndinni falið að reyna að fá annan mann til starfsins. Dr. M. Halldórsson studdi þá tillögu, og var hún samþykkt.

Nefndarálitið var svo með áorðinni breyting borið undir atkvæði og samþykkt í einu hljóði.

Stefán Eyjólfsson lagði til, að kosnir væri tveir menn til að yfirskoða reikninga skólasjóðs. Jón Þórðarson studdi tillöguna, en málinu var frestað.

Fundi slitið.

11. fundr, 25. Júní kl. 9 f. m.

Fyrst var sunginn sálmrinn nr. 512; síðan las séra Jón J. Clemens kafla úr ritningunni og flutti bœn.

Fjarverandi voru séra Friðrik J. Bergmann, séra Jónas A. Sigurðsson, séra Rúnólfr Marteinsson, séra Oddr V. Gíslason, Stefán Eyjólfsson (farinn af þingi), Jóhannes Einarsson og Gunnlaugr E. Gunnlaugsson.

G. B. Björnsson bar fram tillögu um, að kosning yfirskoðunarmanna skólasjóðs-reikninganna væri frestað þar til eftir að skólamálsnefndin væri kosin. Stutt og samþ.

Tómas Halldórsson lagði fram yfirskoðaða reikninga „Sameiningarinnar". Ágrip þeirra er þetta:—Tekjur á árinu $484.80; útgj. borguð $484.80 (þar af prentkostnaðr $426.70); skuldir alls $28.62 (þar af við prentfélag „Lögbergs" $23.12). Útistandanda á blaðið um $1,500.

Samkvæmt tillögu Bjarna Jones, studdri af Jóni Þórðarsyni, voru reikningar „Sam." samþykktir.

Bjarni Jones lagði til og G. B. Björnsson studdi, að skólamálsnefndin frá síðasta ári (Magnús Paulson, séra Björn B. Jónsson, séra Jónas A. Sigurðsson, Sigtryggr Jónasson og Friðjón Friðriksson) væri endrkosin. Tillagan var samþykkt í einu hljóði.

Guðmundr P. Þórðarson kom með tillögu um, að nú

væri kosnir tveir yfirskoðunarmenn skólareikninganna. Stutt og samþykkt.

Kosnir voru samkvæmt tillögu Bjarna Jones þeir dr. Brandr J. Brandsson og Wilhelm H. Paulson.

Séra Björn B. Jónsson bar fram tillögu um, að sömu mönnum væri falið á hendr að yfirskoða alla næsta árs reikninga kirkjufélagsins. Stutt og samþykkt.

Bjarni Marteinsson lagði til, að forseta væri falið á hendr að útnefna mann eða menn til að yfirskoða reikningana, ef annarhvor eða báðir þessir menn forfallist. Stutt og samþ.

Séra Björn B. Jónsson lagði fram svo látandi skýrslu og tillögu frá standandi nefndinni í sunnudagsskólamálinu :

Vér, sem á kirkjuþingi í fyrra vorum kosnir í nefnd til að annast um sunnudagsskólamál kirkjufélagsins og undirbúa sérstakan fund út af því í sambandi við þetta kirkjuþing, leyfum oss að skýra frá því, að vér höfum með útgáfu sunnudagsskólablaðsins „Kennarinn" og á annan hátt leitazt við að halda sunnudagsskólamálinu í svo góðu horfi sem vér höfum getað, og að vér, eins og þinginu er kunnugt, gjörðum nauðsynlegan undirbúning undir fund þann, er hér í þinginu var haldinn að kvöldi hins 22. þ. m. En vér viljum fá að taka það hér fram, að það var oss mjög ógeðfellt, að þingið tók af oss ráðin og gjörði fundinn að reglulegum þingfundi, en ekki almennum fundi fyrir alla starfsmenn sunnudagsskólanna eins og vér höfðum boðað til og auglýst.

Vér ráðum þinginu til að kjósa á ný nefnd til að hafa málið með höndum næsta ár, og að sú nefnd, í samráði við forseta kirkjufélagsins, undirbúi almennan fund og komi honum á fyrir alla starfsmenn sunnudagsskóla vorra í sambandi við næsta kirkjuþing, og sé sá fundr ekki venjulegr þingfundr, heldr sé þangað boðið öllum þeim, sem starfa að sunnudagsskólahaldi í söfnuðunum eða láta sér annt um það mál.

Björn B. Jónsson, Jón J. Clemens,
Bjarni Marteinsson, Halldór S. Bardal.

Nefndarálit þetta var borið undir atkvæði og samþykkt.

Bjarni Pétrsson lagði til, að nefndin í sunnudagsskólamálinu (séra Björn B. Jónsson, séra Jón J. Clemens, dr. Brandr J. Brandsson, Bjarni Marteinsson og Halldór S. Bardal) sé endrkosin. Stutt og samþykkt.

*Sameiningin.*

G. B. Björnsson bar fram tillögu um, að útgáfunefnd „Sameiningarinnar" væri endrkosin. Stutt og samþykkt. Í nefndinni eru: séra Jón Bjarnason, séra Jónas A. Sigurðs-

son, Jón A. Blöndal, séra Friðrik J. Bergmann og séra Rúnólfr Marteinsson.

Bjarni Jones lagði til, að útgáfunefnd ,,Sam.'' væri falið að gjöra tilraun til að sameina öll tímarit kirkjufélagsins (,,Sam.'', ,,Kenn.'' og ,,Aldam.''). Tillagan studd.

Við þessa tillögu gjörði Benedikt Frímannsson þá breytingartillögu, að þriggja manna nefnd væri kosin til að gjöra sameiningartilraunina og að í þeirri nefnd væri hvorki ritstjórar né útgefendr tímaritanna. Eiríkr Jóhannsson studdi. En tillagan var felld.

Séra Jón J. Clemens kom þá með þessa breytingartillögu: ,,Útgáfunefnd ,,Sam.'' sé falið á hendr að gjöra tilraun til þess að sameina tímarit þau, er gefin eru út í sambandi við kirkjufélagið. Takist henni að koma þeirri sameining á, þá sé ,,Sam.'' stœkkuð svo, að hún verði tvær arkir á mánuði (32 bls.) í ,,Aldamóta''-formi, með auglýsingum á kápunni eins og nú hefir verið upp á síðkastið, og að blaðið hafi deildir, sem rœði sunnudagsskóla-málið, bandalags-mál og safnaða-mál, og að það sé selt fyrir 1 doll. Enn fremr, að séra Björn B. Jónsson sé beðinn að hafa á hendi ritstjórn sunnudagsskóla-deildar blaðsins. Nefndin vinni að þessu á komanda ári og gjöri grein fyrir starfi sínu á næsta kirkjuþ.''

Sveinn Sölvason studdi þessa breytingartillögu. En hún var felld.

Séra Rúnólfr Marteinsson lagði til, að ,,Sam.''-nefndinni væri heimilað að gjöra endilegar framkvæmdir í málinu á þessu ári. Sú tillaga var studd og samþykkt.

## Þingsályktan út af kristnitöku Ísl. fyrir níu hundruð árum.

Séra Friðrik J. Bergmann lagði fram fyrir hönd nefndarinnar í því máli (séra Friðriks, séra Jónasar A. Sigurðssonar og séra Odds V. Gíslasonar) svo látandi tillögu:

*Hið sextánda ársþing hins ev. lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi minnist þess með lofgjörð og þakklæti til drottins, að hin íslenzka þjóð hefir verið kristin í níu*

*hundruð ár og notið þeirrar blessunar, sem kristindóminum fylgir.*

*Á þessum níu hundrað ára tíma hefir allt hið bezta í fari þjóðar vorrar fyrir guðlega náð endrfæðzt og helgazt af hinum blessunarríku áhrifum kristinnar trúar.*

*Frá kyni til kyns hefir drottinn verið traust og athvarf þjóðar vorrar og á dásamlegan hátt varðveitt hana í hinni þungu og erviðu baráttu hennar fyrir lífinu, þrátt fyrir afar örðug lífsskilyrði.*

*Hann hefir varðveitt tungu vora og þjóðerni.*

*Hann hefir haldið íslenzkri kirkju og kristindómi við, svo vér eigum náðarboðskapinn um Jesúm Krist í hreinni og óbrjálaðri mynd.*

*Hann hefir leitt brot af hinni íslenzku þjóð vestr um haf og ekki yfirgefið hana þar, heldr safnað hinum tvístruðu börnum hennar saman úr dreifingunni og látið sitt blessað orð og sín háhelgu sakrament búa meðal þeirra með anda sínum og krafti.*

*Á þessari níu hundruð ára afmælishátíð íslenzkrar kristni finnr hið evangeliska lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vestrheimi sér skylt að senda kirkjunni á Íslandi kveðju sína í drottins nafni.*

*Það flytr henni, prestum hennar og leikmönnum, háum og lágum, hugheilustu blessunaróskir. Það biðr almáttugan föður vorn á hæðum að vernda hana og blessa á allri ókominni tíð og gefa henni náð til að vera ljós og leiðtogi þjóðar vorrar á vegi eilífrar sáluhjálpar, og um leið saltið, sem ver hana spilling og dauða.*

*Það vonar, að þjóðkirkjan á Íslandi og kirkjufólkið íslenzka í Vestrheimi megi ávallt haldast í hendr og miðla hvort öðru af þeim andans auð, sem drottni þóknast að gefa á ókomnum tímum, báðum til blessunar, svo að kærleikrinn til frelsarans og endrminningin um sameiginlegan uppruna tengi íslenzk hjörtu ávallt saman, hvar sem þau eru í heiminum.*

Ályktanir þessar voru samþykktar í einu hljóði. Séra

Jón Bjarnason lagði til, að afskrift af þeim væri send biskupi Íslands, og var það samþykkt.

Þá samþykkti þingið að taka á móti boðum frá söfnuðum um að hafa hjá sér kirkjuþing næsta ár.

Kristján Sigmar bauð, að þingið sé haldið í söfnuðunum í Argyle; dr. Móritz Halldórsson, að það sé haldið að Garðar, og Benedikt Frímannsson, að það sé haldið að Gimli.

Séra Jón J. Clemens bar fram tillögu, sem Guðmundr P. Þórðarson studdi, um að boðið frá Gimli væri þegið. Samþ.

Séra Björn B. Jónsson lagði til, að þeim Bjarna Jones og Jóni A. Blöndal væri falið að ákveða útgjöld kirkjufélagsins fyrir næsta ár. Stutt og samþykkt.

Fundi slitið.

12. fundr, sama dag kl. 8 e. m.

Sunginn sálmrinn nr. 259. Fjarverandi voru séra Rúnólfr Marteinsson, Stefán Eyjólfsson og Jóhannes Einarsson.

*Trúmálsumræður.*

Forseti sagði, að nú lægi fyrir hinar áðr auglýstu umræður um trúaratriðið „réttlæting af trúnni". Séra Jónas A. Sigurðsson hóf umræðurnar með langri inngangsræðu. Auk hans tóku þessir þátt í umræðunum: séra N. Steingrímr Þorláksson, Sveinn Sölvason, séra Friðrik J. Bergmann, séra Björn B. Jónsson, Gunnlaugr E. Gunnlaugsson, Jóhann P. Sólmundsson (með sérstöku leyfi þingsins), Gunnlaugr Pétrsson og séra Jón Bjarnason.

Að loknum umræðunum var aftr gengið að starfsmálum þingsins.

Séra N. Steingr. Þorláksson lagði fram svo látandi skýrslu um sendiferð hans á *Gen. Council*-þingið síðastliðið haust:

Samkvæmt því, sem mér var fyrir lagt á síðasta kirkjuþingi, mætti eg sem *fraternal delegate* kirkjufélagsins á þingi *Gen. Councils*, er haldið var í Chicago síðastliðið haust, síðustu dagana af September og fyrstu dagana af Október. Sat eg nær því allt þingið út, ásamt skrifara kirkjufélagsins, séra Birni B. Jónssyni, er slóst í förina með mér. Var mér sönn ánægja að sitja á þessu þingi, og gafst mér tækifæri til að kynnast dálítið nákvæmar leiðandi mönnum *Gen. Councils* og málum þess betr en áðr.

Á morgunfundi annars dags var mér leyft að ávarpa þingið, og

flutti eg því þá bróðurkveðju kirkjufélagsins. Tók eg fram, að eg væri einungis fulltrúi bróðurhugans í kirkjufélagi voru gagnvart *G. C.* Enn fremr, að kirkjufélag vort myndi með tímanum verða einhuga um að ganga í bandalag við *G.C.*, þótt það væri sem stendr ýmsra hluta vegna ekki undir það búið að beiðast inngöngu. Séra Birni var sömuleiðis leyft að tala, og skýrði hann frá ástandi kirkjufélagsins. Sýndi þetta, að okkr báðum var boðið að tala, hvernig hugrinn hjá *G. C.* er til vor „fátœkra og fárra". Enda varð eg ekki var við neitt annað en hinn allra hlýjasta bróðurhug til vor.

Eins og menn líklega muna var ætlazt til þess, er eg var kosinn, að eg gæfi fólki upplýsingar um *G.C.* eftir viðkynning þeirri, er eg fengi af því á þinginu. Samkvæmt því ritaði eg grein út af ferð minni í „Sam.", 11. og 12. nr. f. árs og 1. nr. þ.á. Við það, sem þar er sagt, vil eg bœta því, að ekki fann eg nokkurn hlut hjá *G. C.*, sem er ástœða fyrir oss að fælast. Þar er engin stefna ráðandi, að því er eg fæ séð, sem gæti skaðað oss og vér þyrftum að óttast. Að því leyti álít eg ekki neitt því til fyrirstöðu, að vér göngum inn. Það, sem aðallega mun vera inngöngunni til fyrirstöðu, óttast eg að sé hjá sjálfum oss."

Þeir Bjarni Jones og Jón A. Blöndal, sem kosnir voru til að ákveða útgjöld kirkjufél. fyrir komanda ár, skýrðu frá, að þeir hefði komið sér saman um 200 doll. upphæð, og var sú tillaga þeirra samþykkt.

Séra Björn B. Jónsson bar fram svo hljóðandi tillögu til þingssamþykktar:

„Vér, sem hér höfum setið á kirkjuþingi, viljum innilega þakka fólki safnaðarins í Selkirk fyrir bróðurlegar viðtökur og höfðinglegan viðrgjörning við oss, meðan vér höfum verið gestir safnaðarins. Ekkert hefir fólkið látið ógjört, er aukið gæti ánœgju vora, og í öllu hefir það sýnt oss kristilegan bróðurkærleik".

„Oss er það mikil gleði, að vita söfnuðinn vera á framfaravegi og sjá, að hinir dyggu starfsmenn safnaðarins, sem hér hafa svo lengi og trúlega starfað og barizt fyrir málefni kristindómsins, hafa fyrir drottins náð unnið sigr. Vér óskum söfnuðinum til heilla og blessunar með hina nývígðu kirkju sína og með prestinn, sem nú hefir setzt að hjá honum. Einnig biðjum vér guð að blessa prestinn og árnum honum alls góðs ásamt söfnuðinum."

Tillaga þessi var samþykkt í einu hljóði.

Loks var sungið 3. versið af sálminum nr. 5; séra N. Steingr. Þorláksson flutti bœn; þá var sungið 2. versið af

sálminum nr. 420, og að því búnu sagði forseti þinginu slitið og lýsti hinni postullegu blessan yfir þingmenn.

BJÖRN B. JÓNSSON, skrifari.

---

## Kirkjuvígsla o. fl.

Sunnudag þann, er féll inn í kirkjuþingið, 2. sunnudag eftir trínitatis (24. Júní), var kirkja safnaðarins í Selkirk vígð. það var í hádegisguðsþjónustunni. Vígsluna framkvæmdi forseti kirkjufélagsins, séra Jón Bjarnason, með aðstoð hinna prestanna, er við staddir voru. Einnig setti forseti séra N. Steingrím þorláksson þá inn í prestsembætti þar í söfnuðinum. Séra Björn B. Jónsson prédikaði við þetta tækifæri og hafði fyrir texta 2. Kor. 6, 16: ,,Eg vil búa á meðal þeirra og dvelja hjá þeim, og eg vil vera þeirra guð, og þeir skulu vera mitt fólk'' (sbr. 2. Mós. 29, 45; Jer. 30, 22; Esek. 37, 27). Heimfœrði hann þessa drottinlegu yfirlýsing upp á hvoratveggja hátíðarathöfnina, kirkjuvígsluna og prestsinnsetninguna. Auk kirkjuþingsmanna gengu all-margir safnaðarmenn í Selkirk þá til altaris, þar á meðal ungmenni þau, er fermd höfðu verið næsta sunnudag áðr þar í söfnuðinum.

Seinna um daginn fór fram vígsla grafreits þess hins nýja, sem söfnuðrinn í Selkirk fyrir skömmu hafði fengið að gjöf frá kvenfélagi því íslenzku þar í bœnum, er nefnir sig ,,Vonin''. Reitr sá liggr spölkorn suðr frá bœjarstœðinu á mjög prýðilegum stað. Forseti framkvæmdi einnig vígslu þessa og hélt um leið stutta rœðu. En aðalrœðuna við það tœkifœri hélt séra Jón J. Clemens. Séra Björn B. Jónsson flutti bœn.

Við kvöldguðsþjónustuna sama dag las hr. Gestr Jóhannsson, annar erindsrekinn frá Selkirk á kirkjuþinginu, upp sögu safnaðarins, skrásetta af honum sjálfum eftir beiðni safnaðarins. það er talsvert mikið mál og vel til þess vandað. Er svo til ætlazt, að ritgjörð sú komi út í blaði þessu áðr en langt um líðr. það er mjög merkilegr þáttr úr sögunni um hina kirkjulegu baráttu Vestr-Íslendinga á síðasta áratugi.

## Minning kristnitökunnar á Íslandi fyrir níu öldum.

Að kvöldi sunnudagsins 24. Júní var í kirkju Selkirk-safnaðar haldin sérstök hátíðarguðsþjónusta út af kristnitöku forfeðra vorra á Íslandi fyrir níu hundruð árum. Þann sama dag—á Jónsmessu—var kristni einmitt leidd í lög á alþingi Íslendinga árið 1000. Séra Jón Bjarnason flutti við guðsþjónustugjörð þessa í Selkirk prédikan til endrminningar um hátíðaratburðinn og hafði fyrir texta Matt. 13, 33 (dœmisöguna um súrdeigið). Sú rœða verðr hér prentuð.

Í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg prédikaði séra Friðrik J. Bergmann sama sunnudaginn bæði að morgni og kvöldi, og við kvöldguðsþjónustuna þar prédikaði hann sérstaklega út af kristnitökunni. Texti hans var Hebr. 8, 10 („En sáttmáli sá, er eg hér eftir mun semja við Ísraels fólk, skal vera á þá leið, segir drottinn, að eg mun gefa mitt lögmál í þeirra hugskot og grafa það í þeirra hjörtu, og eg skal vera þeirra guð, og þeir skulu vera mitt fólk“).

Í Tjaldbúðinni í Winnipeg prédikaði séra Rúnólfr Marteinsson þennan sunnudag að morgni, en séra Jónas A. Sigurðsson að kvöldi, og var sú prédikan til minningar um kristnitökuatburðinn. Hann hafði fyrir texta Esek. 37, 1—14, sem segir frá vitran spámannsins um beinadalinn. Í texta þessum lagði hann þó einkum út af þessum orðum í 3. v. : „Munu þessi bein nokkuð geta lifnað við?“—og 5. v. : „Svo segir drottinn alvaldr til þessara beina : Eg vil láta lífsanda koma í yðr, og þér skuluð lifna við.“

Prédikanir þeirra séra Friðriks og séra Jónasar út af því að þjóð vor hefir nú notið blessunar kristindómsins í níu aldir birtast væntanlega á prenti á sínum tíma.

En kristnitökunnar var einnig beinlínis minnzt á kirkjuþinginu. Eins og þingtíðindin bera með sér var af þar til kjörinni nefnd samið ávarp til móðurkirkju vorrar á Íslandi út af því að þjóð vor hefir svona lengi átt því láni að fagna, að eiga guðs orð kristindómsins í eigu sinni. Og eftir að ávarpið hafði af þinginu án breytinga verið samþykkt í einu hljóði

var ályktað, að skrifari kirkjufélagsins skyldi senda það biskupi Íslands, hr. Hallgrími Sveinssyni.

# 1000-1900.

Prédikan út af fagnaðaratburði kristnitökunnar, sem séra Jón Bjarnason flutti í Selkirk að kvöldi sunnudagsins 24. Júní.

*Enn sagði hann þeim þessa dæmisögu: Líkt er guðs ríki súrdeigi því, er kona ein tók og faldi í þrem mælum mjöls, unz það allt sýrðist.*—Matt. 13, 33 (Lúk. 13, 20—21).

það er fyrir oss alla, kristna Íslendinga, stór hátíðardagr í dag. Árið þetta, sem nú er yfir oss að líða, er eins og þér vitið allir, kærir tilheyrendr, júbílár—drottinlegt fagnaðarár—í kirkjusögu þjóðar vorrar. Árið 1900 bendir til baka til ársins 1000, þá er kristindómrinn fyrir náð drottins varð íslenzk þjóðareign. Vér rennum huganum aftr í tímann, fljúgum í anda yfir úthaf heilla níu alda, níu hundruð ára, til þess að nema staðar við lang-merkasta og fagnaðarríkasta atburðinn í þjóðlífi voru—kristnitöku Íslendinga á alþingi þetta síðar nefnda ár. Og það vill þá líka svo vel til, að nú einmitt í dag eru nákvæmlega níu hundruð ár liðin síðan kristnitakan hjá forfeðrum vorum varð að alþjóðarsamþykkt. því á Jónsmessu, 24. dag Júnímánaðar, árið 1000 eftir Krists fœðing var það, að sú allsherjar þjóðarsamþykkt náði fram að ganga á þingvelli við Öxará. ,,þetta er sá dagr, sem drottinn gjörði''—segir hið guðinnblásna sálmaskáld á gamla testamentis tíðinni—; ,,fögnum og verum glaðir í honum'' (Sálm 118, 24). Árið er fyrir oss fagnaðarár, og þessi dagr stendr úthleyptr í endrminningunni eins og aðal-dagrinn,—sannkallaðr afmælisdagr íslenzku kristninnar.

það þarf ekki fyrir neinum kristnum Íslendingum að fœra fram nein rök því til stuðnings, að hér sé fyrir oss að minnast framúrskaranda fagnaðarefnis. þeir allir, sem með trúuðum hjörtum halda því föstu, að sæla sín hin lang-mesta sé í því

fólgin, að lifa andlegu samlífi með Jesú Kristi, mannkynsfrelsaranum,—þeir allir, sem ekki geta hugsað um sjálfa sig öðru vísi en sem glataða menn, ef þeir fyrir einhver ill örlög yrði frá honum slitnir,—þeir allir, sem í sannleika trúa á hið alþekkta, ógleymanlega orð hans: ,,Eitt er nauðsynlegt'',—þeir allir geta líka fyllilega skilið, hve ómetanleg náðargjöf það hlýtr að hafa verið fyrir forfeðr vora sem þjóð að fá til sín kristindóminn á löngu liðinni öld. Menn myndi skilja það, þótt þeir væri með öllu ófróðir um sögu þjóðarinnar bæði fyrir og eftir kristnitökuna. Allir kristnir menn myndi ganga út frá því sem sjálfsögðu, að það, sem þeir persónulega hafa reynt sér verða til mestrar blessunar, kristindómrinn, hafi einnig hlotið að verða þjóðinni í heild sinni til hins sama, ómetanlegrar, drottinlegrar hamingju. En svo er nú hins vegar góðum guði fyrir það að þakka, að allr þorri íslenzkrar alþýðu hefir náð að komast yfir svo mikla sögulega þekking á hag forfeðra vorra úti á Íslandi, að menn vita líka beinlínis með fullkominni vissu úr þeirri átt, að það var alveg framúrskaranda heillaspor, sem þjóð vor til forna sté með kristnitökunni.

það er kunnugra en frá þurfi að segja, að tíminn allr, sem leið frá landnámi Íslands til kristnitökunnar, var fyrir þjóðina í heild sinni mjög kuldaleg, dimm og grimm nætrtíð. Hin villta víkingslund, harðneskjan, hefndargirnin var þá alráðandi. Oss er að vísu unaðr að hugsa um hreystina og hugrekkið, sem kemr fram svo glæsilega hjá hinum heiðnu köppum þeirrar fornaldar. Og vér gleymum því ekki, að það er líka þá til göfugr drengskapr hjá ýmsum þeirra forn-íslenzku höfðingja. En þegar vér hugsum um það, að lang-mestr hluti þjóðarinnar er þá ánauðugir þrælar, án allra mannréttinda, og í annan stað um það, að höfðingjarnir, frjálsu mennirnir, geta aldrei á sárs höfði setið hver við annan, að allsstaðar logar ófriðareldrinn, að vígaferlin og hryðjuverkin eru eins og daglegt brauð, að landið allt flýtr í blóði, og aðal-trú manna er trú á sinn eigin mátt og megin, — þá getum vér ómögulega litið á þá heiðnu öld öðruvísi en sem nótt — ömurlega, nálega stjörnulausa, helkalda vetrarnótt. En með

kristnitökunni fór óðum að birta og hlýna. Dagrinn fæddist þá áreiðanlega í þjóðlífi Íslands. það er sýnileg dagsbirta yfir Íslandi á elleftu öldinni. En það var nótt yfir Íslandi á tíundu öldinni. Villudóms-einkennin hjá forfeðrum vorum fóru minnkandi og fækkandi þegar undir eins eftir að kristindóminum hafði verið leyfð landsvist hið ógleymanlega ár—árið 1000. Fornsögu-öldin endar að vísu ekki fyrr en sem svarar einum lökum mannsaldri eftir það. því svo lengi er söguefnið gamla, vígaferlin, hinar blóðugu mannhefndir, til í þjóðlífinu. En mjög fjarri fer því þó, að heiðindómsandinn gamli haldi sér á þeim mannsaldri með sama kraftinum eins og áðr. Sögur vorar bera þess marg-endrtekinn vott, það af þeim, sem nær inn á það tímabil, að þá er óðum að verða ljós í landinu, sannkristilegt trúarljós, og að ljómandi geislar af því ljósi eru þegar komnir og farnir að hafa vald yfir samvizku þjóðarinnar.

Árið 1011 koma fyrir tvö voðaleg hryðjuverk á Íslandi, annað um vorið, hitt um haustið, svo skelfileg, að ekkert er meira í þá átt á heiðindómsöldinni áðr í sögu landsins. Annað er víg Höskuldar Hvítanesgoða. Hitt er Njálsbrenna. Í hvorutveggja þeirra hryðjuverka kemr hinn forni heiðindómsandi fram í sínum algleymingi. En hins vegar bregðr þar á báðum stöðunum fyrir svo mikið af birtu kristinnar trúar, að engum getr dulizt, að ný öld, óendanlega miklu betri og sælli en hin gamla, er runnin upp yfir þjóðina. þegar Höskuldr féll, sagði hann: „Guð hjálpi mér, en fyrirgefi yðr.“ Hann dó eins og hinn fyrsti kristni píslarvottr.—En eigi síðr er stórkostlegt að hugsa um Flosa þórðarson, þegar hann á ferð sinni til alþingis hittir Hildigunni bróðurdóttur sína, og hún kastar yfir hann skikkjunni, er Höskuldr, maðr hennar, var veginn í, svo að blóðlifrarnar dundu um hann allan, og særði hann í æðisgengnum grimmdarhug við allt heilagt og guðlegt, að koma blóðhefnd fram á banamönnum hins látna, eða heita hvers manns níðingr ella. það óskaplega sálarstríð, sem þeim manni nauðugum og alveg óvænt var þá kastað út í! „Flosa brá svo við“—segir söguritarinn—, „að hann var í andliti stundum sem blóð, en stundum fölr sem nárr, en stundum

blár sem hel." Tvö andstœð öfl eru að brjótast um í sálu hans, og það lítr út fyrir, að hann muni ætla að verða algjörlega slitinn sundr af þeim öflum—heiðindóminum og kristindóminum. . Hann vildi lang-helzt, að sáttum yrði komið á, heiðarlegum sáttum, og í þá átt var hann knúðr af anda kristinnar trúar ; en heiðindómsandinn heimtaði hefnd. Og eftir að hann hafði svo átakanlega verið særðr af frændkonu sinni, syrgjandi ekkju hins vegna saklausa manns, var nálega auðsætt, að hann myndi neyðast til að taka það ráð, er öllum gegndi verst. Sáttatilraunin á alþingi misheppnaðist.—Og svo urðu úrræðin þau, að brenna þá Njál og sonu hans inni. En þegar loks er gripið til þess voðalega óyndis-úrræðis, er hin kristna samvizka Flosa enn vakandi. Hann lýsir yfir því í heyranda hljóði, er hann á þennan hátt með mönnum sínum sœkir að bœnum að Bergþórshvoli, að þetta sé stór ábyrgðarhlutr fyrir guði, þar sem þeir sjálfir sé menn kristnir. Og er þar sýnt, hve sterkt afl kristindómrinn er þá þegar farinn að verða í þjóðlífinu á Íslandi, þó að hann sé ekki enn orðinn nógu sterkt afl til þess að afstýra þessu voðaverki. En voðaverkin heiðinglegu fara svo stórum dvínandi. Og þegar komið er fram á miðja þá öld, er kristindómrinn búinn að fá svo mikið vald yfir samvizku þjóðarinnar, að landið má kalla vel kristið land. Undir lok aldarinnar er svo komið, að vopnaburðr meðal höfðingja hefir nálega með öllu lagzt niðr og þjóðin nýtr fullkomins friðar og velsældar í skjóli blómlegrar kristinnar kirkju.

Og vitanlega er það kristindómrinn, sem framleiddi hinar merkilegu forn-íslenzku bókmenntir á tólftu og þrettándu öldinni, bókmenntir, sem hafa svo sterkt lífsmagn, að þær halda áfram að vaxa og fullkomnast um langa tíð eftir að trúarlífið í kirkjunni er komið í hörmulega visnan og sýnist ekki framar eiga neina viðreisnarvon. Á Sturlungaöldinni er heiðindómrinn aftr fallinn yfir land og lýð, þó að þjóðin gangi þá enn undir kristnu nafni ; og sá nýi heiðindómr er að sumu leyti enn þá ömurlegri en hinn forni, þar sem menn á þeirri fráfallstíð með kristinni trúarjátning í orði kveðnu voru þá óðum að vaxa niðr á við. En þó að trúarlífsástandið væri svo hryggilegt

þá, að ódœmum sætir, þá má því þó með engu móti gleyma, að bókmenntirnar, sem þá blómguðust, voru beinn ávöxtr af kristindóminum, sem með svo sterku afli hafði náð sér niðri hjá kynslóðum næst undan genginna mannsaldra. Með kristnitöku forfeðra vorra rís andleg flóðalda á hafi hins íslenzka þjóðlífs, sem fer vaxandi alla elleftu og tólftu öldina; og þó að aflið, sem hleypti henni á stað, kristna trúin, dofni og nálega deyi út, þá heldr þó flóðaldan áfram að velta sér yfir þjóðlífið býsna langa tíð eftir það. Hið andlega atgjörvi hjá þjóðinni heldr sér um hríð og birtist í bókmenntunum eftir að kristindómrinn hefir verið særðr til ólífis. En auðvitað kemr að því, að líka þessar fornu íslenzku bókmenntir visna upp œði löngum tíma eftir að kristindómslífið, sem hafði verið orsök þeirra, var fallið í dá í landinu. Á fjórtándu og fimmtándu öldinni verða þær nákvæmlega eins fátœklegar eins og trúarlífið í íslenzku kirkjunni þá var fátœklegt. En svo verðr þjóð vor á sextándu öldinni fyrir því mikla fagnaðarefni, að fá bjart ljós guðs orða hjá sér endrkveikt með hinni lútersku reformazíón. Og þá, eins og áðr og eins og búast mátti við, hefst aftr nýtt bókmenntalíf í landinu. Þá eins og áðr rís önnur mjög sterk og blessunarrík andleg flóðalda á hafi þjóðlífsins, ekki nákvæmlega eins útlits og hin fyrri, ekki líkleg til þess að varpa öðrum eins frægðarbjarma yfir þjóðina í heimsins augum, en þó fyrir Íslendinga sjálfa ómetanlega dýrmæt, guðlegt fagnaðarefni, sem aldrei verðr fullþakkað fyrir. Út af þessari flóðöldu stóð Ísland á síðari hluta sextándu aldarinnar, alla seytjándu öldina og nokkuð fram á átjándu öldina, þrátt fyrir þau jarðnesku eymdarkjör, sem þjóð vor varð þá gegn um að ganga, í andlegu tilliti fullkomlega jafnfœtis hinum kristnu menntalöndum út um heim. Það var í þessari flóðöldu, að vér fengum biblíuna alla á móðurmál vort frá hendi Guðbrands Þorlákssonar, eftir að Oddr Gottskálksson hafði þar rutt brautina með nýja testamentis þýðingunni. Og það var sömuleiðis í þessari flóðöldu, að Hallgrímr Pétrsson í passíusálmunum og öðrum dýrmætum trúarljóðum sínum og Jón Vídalín með hinum ógleymanlegu prédikunum sínum fluttu þjóðinni boðskapinn um Jesúm Krist hinn krossfesta og víðfrægðu nafn hans svo

dýrðlega, að allir hljóta að beygja sig fyrir þeim ritverkum með dýpstu lotning, — mér liggr við að segja, hvort sem menn eru trúaðir eða vantrúaðir.

Eg ætla nú ekkert frekar að rekja trúarlífssögu þjóðar vorrar. Ekkert að minnast á ástand hins íslenzka þjóðlífs eftir að þessi síðari mikla flóðalda tók að hjaðna. Ekkert að rifja upp af því, er drifið hefir á daga Íslendinga í kristindómslegu og menntunarlegu tilliti á þessari öld, sem nú er að kveðja, eða síðara hluta átjándu aldarinnar. Að eins vil eg segja það, að nú er vissulega þörf á nýrri kristilegri stórstraumsöldu fyrir þjóðlíf vort. Og eg sé ekki betr en að þegar sé farið að móta fyrir henni. Mér sýnist slík alda vera þegar tekin til að rísa í kirkjunni íslenzku, bæði heima á Íslandi og líka hjá fólki voru hér í þessu landi. Hœgfara er hún. Það er víst. Og það getr vel farið svo, að hún hjaðni upp og verði bráðlega að engu. En hitt er naumast missýning, að byrjan til slíkrar öldumyndunar sé þegar komin fram. Og er þá fyrir oss alla, íslenzka kirkjumenn, með guðs hjálp að sjá við því, að þetta verði ekki byrjanin tóm.

Nú—þegar hér er komið í júbílhátíðar-hugleiðingum vorum—vil eg í drottins nafni leiða athygli yðar allra, kærir tilheyrendr, að þeim stutta kafla guðs orðs, sem eg las upp úr biblíunni áðr en eg hóf þetta mál mitt. Því á því er ekki minnsti vafi fyrir mér, að þar er skýr bending frá hinum guðlega konungi kirkjunnar, frelsara vorum Jesú Kristi sjálfum, um það, á hvern hátt kristindómrinn á að verða og getr orðið hverju einasta þjóðlífi stórkostlega arðberandi eign, svo að hann beri almenningi æ meiri og víðtœkari blessan eftir því, sem tímar líða fram, sívaxanda ávöxt til eilífs lífs. Flóðaldan andlega, sem eg sagði að væri farið að móta fyrir í íslenzku kirkjunni í báðum höfuðáttum hennar, í austri og vestri, heldr alveg víst áfram að rísa og fœrast út, ef vér, sem drottinn hefir kvatt sér til þjónustu, í meðferð vorri á orði hans förum eftir þeirri bending, sem hann gefr í dœmisögu textans. Og þótt það væri missýning, þetta um mót fyrir rísandi öldu í kirkju vorri, þá myndi þó slík alda áreiðanlega taka til að rísa með von um áframhaldanda vöxt hennar, jafnvel alveg takmarkalausan, ef

vér nú hér eftir fyllilega tœkjum bending Jesú í textanum til greina. Textinn er undr orðfár og óbrotinn, og það er mjög auðvelt að átta sig á honum. Jesús líkir guðs ríki þar, eins og þér heyrðuð, við súrdeig, sem kona nokkur tók og fól í þrem mælum mjöls þangað til það allt sýrðist. Með þessu mjög auðskiljanlega líkingarmáli lýsir hann hinni guðlegu vaxtarákvörðun og hinum makalausa vaxtarhœfilegleik kristnu trúarinnar. Á þann hátt, sem hér er sýnt, ætlast frelsarinn til að kristindómrinn, þegar hann er búinn að ná sér niðri á þeim eða þeim stað í heiminnm, hjá þeim eða þeim manninum, læsi sig út ósýnilega, hœgt eða fljótt, en með algjörlega ómótstœðilegu afli, til fleiri og fleiri mannslífa, þangað til allt mannfélagið er orðið kristið. En um leið og kristindómrinn þannig nær til fleiri og fleiri manna, þá er tilætlanin sú, að hann hjá öllum þeim mannslífum verði að framúrskaranda lyftingarafli, og það undantekningarlaust í öllum greinum. Tilætlanin, að áhrif hins guðlega súrdeigs komi allsstaðar fram í lífinu, að kristindómrinn leggi þjóðlífið undir sig, lyfti því upp, hrindi því áfram, endrfœði það, umskapi það, blási í það nýjum anda, heilögum anda. En tilætlanin jafnframt, að þessi ummyndan og upplyfting fari þannig fram, að ómögulegt sé fyrir náttúrlegt hyggjuvit manna að gjöra sér neina grein fyrir því, á hvern hátt þetta eiginlega verðr. Hér skal verða yfirnáttúrlegt kraftaverk. Og það skal verða öllum heiminum augsýnilegt. En af því að þar er um kraftaverk að rœða, þá skal það æfinlega verða mannlegri skynsemi óskiljanlegt og órannsakanlegt.

Textann minn þennan frá Jesú Kristi um súrdeigið valdi eg nú líka einmitt með sérstöku tilliti til kristnitöku forfeðra vorra á Íslandi á þessum degi árið 1000. Því það blasir svo skýrt við í sögunni um þann stórhátíðar-atburð, að hinn mikli sannleikr, sem Jesús opinberar í því dýrmæta smábroti af boðskap sínum, hafi verið sterklega ráðandi í sálum höfðingjanna íslenzku, sem gengust fyrir því að hleypa kristindóminum inn í þjóðlífið með hinni merkilegu alþingissamþykkt.— Eg skal með fám orðum leyfa mér að rifja upp fyrir yðr, brœðr og systr, söguna um atburðinn. Landið var orðið tvískift út

af trúmálum. Kristniboð hafði um nokkur ár áðr verið rekið víðsvegar um héruð af ýmsum mönnum með talsverðum árangri. All-margir höfðu tekið kristna trú, af hjartans sannfœring. En meiri hluti, jafnvel lang-mestr hluti landslýðsins, hélt enn við hinn heiðna sið. Það er í þetta skifti mjög fjölmennt til alþingis; því allir vissu, að trúmáls-ágreiningrinn mikli, sem farinn var að mynda mjög ákveðna og ískyggilega flokkaskifting í landinu, hlyti að verða aðal-málið á þinginu. Undir eins og á Þingvöll er komið eru tilfinningarnar hjá talsmönnum heiðninnar svo œstar, að mjög nærri lá, að þeir legði til bardaga við andstœðingana kristnu. Og hvorir sögðu sig úr lögum við aðra. Þá var það, að Síðu-Halli, hinum ágæta manni, er helzt stóð fyrir flokkinum kristna, hugsaðist það ráð, að fá Þorgeir Ljósvetninga-goða, sem enn þá fyllti flokk heiðingja, til þess að segja upp lög fyrir landið um trúmálin. Og komu báðir flokkar sér saman um að una við lögmál það, er hann bæri fram. Eftir sólarhrings undirbúning gekk hann á þing og bar fram nýmæli sitt. Sagði hann þar svo fyrir, að allir landsbúar skyldi kristnir vera, trúa á þríeinan guð og láta af allri skurðgoðavillu ; væri blótað eða fórnir fram bornar til handa hinum heiðnu goðum svo að opinbert yrði, þá varðaði það fjársekt, en var vítalaust, ef að eins var gjört á laun. Og að því, er snerti barna-útburð og hrossakjötsát, sem hvorttveggja var mjög ákveðið heiðindóms-einkenni, þá skyldi hin fornu lög enn vera í gildi. Með þessu lögmáli var þá kristindóminum veitt friðhelg vist í þjóðlífi Íslendinga. Meira var ekki veitt. Það hefir sumum vorra samtíðarmanna þótt lítið, hlœgilega lítið. Og því hefir verið fleygt fram, að það beri vott um stórkostlegan skort á trúarlegri alvöru hjá talsmönnum kristindómsins til forna, að þeir skyldi gjöra sig ánœgða með aðra eins tilslökun við heiðingjana og hér kom fram. En sannleikrinn er nákvæmlega hið gagnstœða. Djúpskyggn, skarpvitr, sannkristileg alvara trúarinnar ræðr því hjá hinum kristnu mönnum, að þeir fyrir sig og sitt mál heimta ekki meira en hér var veitt. Þeir sáu, að á meira var ekki þörf. Þeir höfðu svo sterka trú á sannleiksmálefni kristindómsins, að þeir voru hjartanlega sannfœrðir um það fyrirfram, að því

var sigrinn vís í samkeppninni við heiðnina eftir að því á þennan hátt að eins hafði verið veitt leyfi landslaganna til að ryðja sér með frjálsu móti braut inn í líf þjóðarinnar. Þeir voru svo merkilega frjálslyndir og sannkristnir í anda, að þeir með góðu geði gátu unnt hinum heiðnu samþjóðarmönnum fullkomins samvizkufrelsis. Og þó að þetta kristilega vit og frjálslyndi, sem hér kom fram hjá forfeðrum vorum, sé nú í rauninni ekki neitt meira en það, er allir telja sjálfsagt úr þeirri átt, frá hálfu kristinna manna, á vorri tíð, þá mun það þó nálega einsdœmi í kristna heiminum á þeirri tíð. Það fer því mjög fjarri, að kristindómrinn hjá þessum forfeðrum vorum hafi að eins verið nafnið tómt. Sennilega hafa þeir allir verið mjög lítið biblíufróðir menn. Og meðal annars allsendis ólíklegt, að þeim hafi verið kunnug hin stutta dœmisaga frelsarans um súrdeigið. En hitt er eins víst fyrir því, að hinn dýrmæti sannleikr, sem Jesús er að kenna og útskýra með því líkingarmáli, hefir þegar svo snemma verið orðinn andleg eign þeirra. Þeir eru þá undir eins orðnir svo vel kristnir, að þeir trúa því hiklaust, að kristindómrinn, úr því hann á annað borð fær leyfi til landsvistar, muni verða og hljóti að verða það andlega súrdeig, sem innan skemmri eða lengri tíma sýri gjörvallt þjóðlífið. Þeir sjá það fyrir, að kristna trúin, sem þeir sjálfir höfðu eignazt og gengu með í hjörtunum, myndi fyrir þann guðlega sannleikskraft, sem í henni lá, kyrrlátlega, en ómótstœðilega læsa sig inn í mannslífin mörgu, sem enn voru heiðin, þangað til heiðindómsins gætti ekki lengr í landinu. Og þeir sáu það vafalaust einnig fyrir, að hinn nýfœddi kristindómr myndi verða súrdeig til blessunar fyrir þjóðina í veraldlegum efnum, enda þótt þeir að líkindum ekki gæti ímyndað sér, að hann í þeirri grein myndi verða eins mikil blessunaruppspretta eins og á næstu mannsöldrum varð í reyndinni.

Það er til önnur miklu lengri dœmisaga eftir frelsarann, sem að efni til er náskyld þessari í texta vorum um súrdeigið. Það er dœmisagan um illgresið meðal hveitisins. Í þeirri dœmisögu spyrja þjónar mannsins, sem átti akrinn, er þar er um að rœða, hvort hann vilji ekki, að þeir fari og upprœti illgresið, sem þar var sprottið fram innan um hveitið. En hann

neitar því, sýnandi þeim fram á, að slík tilraun myndi verða til meira ills en góðs, því með því móti myndi þeir rífa svo eða svo mikið af hveitinu upp með illgresinu, og segir þeim að láta hvorttveggja vaxa saman til uppskerunnar. Jesús sjálfr útleggr þessa dœmisögu. ,,Hinn góði ávöxtr" — segir hann þar —,,eru guðs börn"; en ,,illgresið eru börn hins vonda." Hin kristna kirkja á miðöldunum breytti yfir höfuð að tala alveg þvert á móti fyrirmælum frelsarans í þessari dœmisögu. Hún beitti hvað eftir annað ofbeldi við þá alla, er í hennar augum voru heiðingjar, ofsótti þá, kvaldi þá, deyddi þá. Henni gat með engu móti skilizt, að illgresið ætti nokkurn minnsta rétt á sér á meðal hveitisins. En á Íslandi kom ekkert slíkt fram við kristnitökuna forðum, né heldr á næstu tveimr öldum þar á eftir eða lengr meðan sami andinn var ráðandi yfir hinum kirkjulegu leiðtogum þjóðarinnar. Þeir skildu það til hlítar, hvers vegna ómögulega má upprœta illgresið, fyrir þá sök, að sannleikr sá, sem felst í hinni dœmisögunni, þeirri um súrdeigið, hafði náð svo sterku haldi á hjörtum þeirra. Það að ekki má—í hinni fyrrnefndu dœmisögu — upprœta illgresið er ekki að eins vegna þess, að hveitið, sem niðri í jörðinni er því svo samvaxið, myndi um leið verið rifið upp og eyðilagt, heldr líka fyrir þá sök, að illgresið getr fyrir guðlegt kraftaverk ummyndazt og orðið að hveiti, og það er vilji drottins, að það kraftaverk verði—óteljandi slík yfirnáttúrleg kraftaverk. Og það gjörist einmitt á þann hátt, að hinir kristnu menn hafi þau áhrif á heiðingjana, sem með þeim lifa, að líka þeir verði kristnir. Frelsarinn kennir ekkert um þetta í dœmisögunni um illgresið á meðal hveitisins,— vill skiljanlega ekki gjöra það þar, svo líkingarmál þeirrar dœmisögu ekki verði ónáttúrlegt. En til þess að bœta það upp, sem þar vantar, kemr hann með dœmisöguna um súrdeigið.

Gegn um textann og gegn um forfeðr vora á Íslandi, sem verkfœri urðu í guðs hendi til þess að leiða kristindóminn fyrir níu hundruð árum inn í þjóðlíf vort, kemr nú frelsari vor Jesús Kristr sjálfr til vor, íslenzkra kirkjumanna, og leggr oss á hjarta þann mikla sannleik, að vér erum af honum sjálfum

kjörnir til þess að vera andlegt súrdeig fyrir land vort og lýð. Vér verðum að kenna kristindóminn svo í kirkjunni, að vissa sé fyrir því, að hann ekki í meðförunum missi neitt af hinum guðlega sannleikskrafti sínum. Vér verðum að ganga svo samvizkusamlega frá prédikan kristindómsorðsins, að það komi þar fram hreint og ómengað og sem líf og andi. Guðs orð hefir í sér heilagan, yfirnáttúrlegan súrdeigskraft. En það getr dofnað upp í munni mannanna, sem það prédika, og að miklu leyti eða algjörlega misst súrdeigseðlið, og þar af leiðanda ekki haft nein helgandi, upplyftandi, betrandi áhrif á tilheyrendrna, orðið að dauðum kirkjulegum bókstaf, og þessi hefir marg-oft orðið reyndin á fjarlægum og nálægum tíðum í sögu kristinnar kirkju. Og það dofnar ávallt þannig upp í munni hinna kirkjulegu prédikara, ef þeir persónulega ekki halda sjálfum sér undir áhrifum heilags anda. Kenningin kirkjulega á að vera heilagt súrdeig. En hún verðr það ekki, getr ekki orðið það, nema því að eins að lífið, líf þeirra, er til þess eru kvaddir að halda boðskap Jesú Krists á lofti, beri vott um sama heilaga súrdeigseðlið. Þeir skildu þetta líka, mennirnir á Íslandi til forna, sem gengust fyrir því að útvega kristindóminum friðhelga landsvist þar heima árið 1000. Meðan Þorgeir Ljósvetningagoði beið í djúpum hugsunum og var að búa sig til þess að segja upp lögin um trúmál þjóðarinnar, höfðu heiðingjarnir á alþingi fund með sér til þess að koma sér saman um það, með hverju móti þeir helzt gæti séð málefni heiðindómsins borgið. Og ráðið varð það, að blótað skyldi tveim mönnum úr hverjum landsfjórðungi og heitið á goðin, að þau léti ekki kristni ganga yfir landið. En í annan stað héldu og kristnir menn fund til þess að styrkja sinn málstað. Þeir tóku líka það ráð, að bera fram fórnir—sínum guði, hinum sanna guði, til handa. Þeir Hjalti Skeggjason og Gizur hvíti sögðu: ,,Heiðingjar blóta hinum verstu mönnum og hrinda þeim fyrir björg eða hamra; en vér skulum velja at mannkostum, ok kalla sigrgjöf við drottin várn Jesúm Krist; skulum vér lifa því betr ok syndvarlegar en áðr.'' Og svo gáfu þessir rœðumenn sig sjálfir undir eins fram til slíkrar heilagrar fórnargjörðar fyrir þann landsfjórðung, er þeir áttu

heima í; og brátt fengust einnig menn til fyrir hina landsfjórðungana til þess að helga sig og heitbinda líf sitt drottni til þjónustu á sama hátt. „Svo áminni eg yðr, brœðr, í guðs náðar nafni, að þér framseljið líkami yðar eins og fórn, lifandi, helga, guði velþóknanlega, (sem er) skynsamleg guðsdýrkan yðar.“ Þannig ritar Páll postuli í upphafi 12. kapítulans í Rómverjabréfinu. Sannleikr þeirra postullegu orða er auðheyrt alráðandi í sálum þessara göfugu forfeðra vorra á hinum merkilega fundi. Þeim skilst það, að með þessu móti hljóti málefni kristinnar trúar að verða borgið á Íslandi. Þeim skilst það, að þessir einstöku, er lögðu sjálfa sig fram sem lifandi fórn drottni Jesú til handa, myndi á þann hátt verða að heilögu súrdeigi með svo miklum krafti í sér, sem dygði til þess að sýra allt deigið, umskapa heiðingjana, kristna allt landið. Ef vér í hinni kirkjulegu starfsemi vorri fetum samvizkusamlega í fótspor mannanna, sem fyrir níu hundruð árum útveguðu kristninni lagaleyfi til landsvistar á ættjörð vorri, þá verðr líka málefni kristindómsins hjá oss áreiðanlega borgið. Sjáum að eins um það, að kristindómrinn hjá oss haldi sínu heilaga súrdeigseðli; þá er öllu óhætt,—algjörlega óþarft að kvíða fyrir því, að vér liggjum undir í viðreigninni við hin andstœðu vantrúar-öfl og siðspillingar-öfl í mannfélagi voru. Látum hina kirkjulegu prédikan vora vera drottinlegt súrdeig. Látum barna-uppfrœðsluna kirkjulegu hjá oss vera samskonar súrdeig. Látum hvern einasta söfnuð í kirkjufélagi voru vera slíkt súrdeig. Látum prestana og leikmennina, sem heyra til félagshópi vorum, keppa hver við annan í því að gjöra líf sín að kristilegu súrdeigi. Þá er sjálfum oss og hinu góða málefni, sem vér höfum sameiginlega með höndum frá frelsara vorum Jesú Kristi, sigrinn vís.—Ekki skal því að vísu gleymt, að hinu illa og óguðlega er líka í heilagri ritning líkt við súrdeig. „Varizt fyrst og fremst súrdeig farísea, það er: hrœsnina“—segir Jesús (Lúk. 12, 1). Á öðrum stað segir hann lærisveinum sínum, að þeir skuli vara sig á súrdeigi bæði farísea og sadúsea (Matt. 16, 6). Og til Korinþumanna segir Páll postuli: „Takið burt gamla súrdeigið, svo að þér framvegis getið verið nýtt deig“ (1. Kor. 5, 7), og gjörir svo

undir eins grein fyrir því, um hvað hann er að hugsa, þegar hann kemr með þessa áminning,—segjandi: „Höldum því hátíð—ekki með hinu gamla súrdeigi, eðr súrdeigi vonzkunnar og prettvísinnar". Vonzkan og vantrúin, siðspillingin og óguðleikinn hefir líka það eðli í sér að geta breiðzt út frá manni til manns, læst sig inn í fleiri og fleiri mannslíf með hræðilegum súrdeigskrafti. En ef kristindómrinn fær fullkomlega að njóta sín í kirkjunni, þá er þó fyrir engu að kvíða úr hinni áttinni, fyrir þá sök, að ríki guðs er sterkara en ríki hins vonda; súrdeigið kristilega hefir meiri mátt í sér en hið djöfullega súrdeig,

Eg get vel skilið það, að yðr, kæru kristnu tilheyrendr, ofbjóði það einatt, hve stórkostlega ranglætið, spillingin og heimskan veðr uppi í þjóðlífinu íslenzka. Mér hefir líka marg-oft ofboðið það. En einblínum þó ekki á þau ískyggileigu teikn tímanna, því það gæti svo hœglega leitt til þess, að vér fœrum að örvænta um sigr hins góða, og þar af leiðanda um framtíðarheill þjóðflokks vors beggja megin hafs. Látið, vinir mínir, ekki freistazt til þeirrar ímyndunar, að það þurfi endilega að upprœta illgresið á þjóðlífsakri vorum, svo framarlega sem hin andlega akuryrkja þar eigi að hafa nokkurn áárangr eða koma að tilætluðum notum. Vér getum ekki upprœtt illgresið, hversu mikið sem oss kynni að langa til þess. Og vér mœttum það ekki, þótt vér gætum það. Hugsum sem allra minnst um illgresið. En hugsum um hveitið. Hugsum um það, að vera sjálfir drottinlegt hveiti, með fullum lífskrafti. Illgresið—slíkt illgresi—getr ummyndazt og orðið að hveiti, og að því leyti, sem það ekki ummyndast, skal það fyrr eða síðar þoka fyrir hveitinu. Drottinn sjálfr, hann, sem á akrinn, sér fyrir því. Hugsum ekki um það, að elta alla lygi og heimsku, sem haldið er á lofti nú á þessum tíma í rœðu og riti í því skyni að leiða íslenzka alþýðu á glapstigu;—það yrði mjög þreytandi og alveg þýðingarlaus eltingaleikr. En hugsum um það með lífsáhrifum vorum og kenningum vorum að láta svo mikið af sannleik, guðlegum kristilegum sannleik, út frá oss ganga inn í þjóðlíf vort, að lygin og villan komist þar ekki fyrir, smávisni upp og deyi. Gjörum allt,

sem í voru valdi stendr, til þess að hin kristilega flóðalda, sem eg áðan var um að tala, magnist, magnist svo stórkostlega og gleðilega, að hún sópi öllu illu burt úr þjóðlífi voru, því öllu, sem engan hœfilegleik hefir í sér til þess að geta ummyndazt á guði velþóknanlegan hátt.—Maðr spurði Moody, hinn mikla kristna prédikara, sem andaðist rétt fyrir jólin síðustu, hvernig hann ætti að fara með sjálfan sig, því hjartá sitt væri svo spillt. ,,Láttu"—svaraði Moody—,,nógu mikið þar inn af heilögum anda guðs." Með því móti myndi vonzkan í hjartanu dvína, og á endanum alls ekki koma til greina. Alveg eins og ef nógu lengi væri hellt tæru uppsprettuvatni í ílát með óhreinu og skemmdu vatni, þá myndi skemmda vatnið smásaman hverfa og eyðast loks þar í ílátinu algjörlega. Hellum þá líka nógu miklu hreinu andlegu vatni inn í hina gruggugu tjörn nútíðarþjóðlífsins íslenzka. Látum þangað stöðugt renna strauma lifanda vatns út frá oss í hinni kristnu kirkju vorri. Þá hreinsast vatnið í tjörninni áreiðanlega—alveg eins og það forðum svo undr fljótt og gleðilega hreinsaðist eftir að hin ógleymanlega alþjóðarsamþykkt var gjörð kristindóminum viðvíkjandi á alþingi Íslendinga þennan dag fyrir níu hundruð árum.

Munið allir, kristnir menn, eftir dœmisögu frelsarans um súrdeigið.

---



,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.